# Fáeinar Athugasemdir

um

# Kúabólu-setníngu og Bólusótt

fyrir

# Almúga á Íslandi.

Prentadar í Videyar Klaustri á opinberan kostnad 1840.

Þad er flestum kunnugt, hvørsu mikinn mannfellir bólusótt opt hefur gjørt á Íslandi á fyrri øldum, hefur hún nærst eptir drepsóttina miklu 1402 og 1495 verid sú mannskjædasta sem hér hefur geingid, og sídan 1291, þá hún í fyrsta sinni kom híngad, hefur hún geingid 22ar sinnum, ýmist yfir allt, edur mikinn hluta landsins, og eitt sinn, nefnil. 1707 drepid 18000 manns. Nú hafa lidid yfir 50 ár sídan hún kom hér seinast, og er þad kúabólu-setníngunni ad þakka, sem um flest lønd, hvar hún var innleidd, gjøreyddi henni um tíma, og enn nú, hvar hún er réttilega brúkud, hindrar hana ad mestu edur øllu.

Þar nú svo óhappalega hefur tilviljad: ad franskur Matrós, hafdi í fyrra komid henni inn í Vestmannaeyar, og hún þadan hefur dreifst vída um sudurland, er ei ørvænt hún útbreidist um allt land, hvar ekki er því betur kúabólusett, vil eg því fyrst stuttlega géta um ýmislegt vidvíkjandi kúabólusetníngu, sem af allmørgum er allt ofmjøg vanhyrdt, og vída hvar um mørg ár aldeilis løgd fyrir ofurbord.

Í Sunnanpóstinum 1836 í Júlii mánudi, hefi eg stuttlega drepid á, hvørsu naudsynlegt væri, ad endurnýa kúabólusetníngu eptir nokkur ár, einkum þegar von er á bólusótt, því þad er satt og víst, ad hún er þad besta medal sem nokkurn tíma hefur verid uppfundid til ad varna bólunni, og þad

einasta áreidanlega; eg vil því vona og óska: ad allir Prest-ar, hvörjum þad einkum er á hendur falid med Reser. af 10da Marts 1830, ad setja kúabólu. og adrir þeirra tilsettu medhjálpendur, láti sér ant um ad útbreida hana allstadar um landid, ádur enn bólusóttin kémur, því med því er hægt ad komast hjá bólunni, en ekki altént hægt ad lækna hana þegar hún er komin.

Fyrst er til ad taka um börnin, ad þau yrdu öll bólusett, og þeir eldri, sem kúabóla aldrei hefur sett verid, eda kom-id út á, er og naudsynlegt ad setja þeim fyrst, til þess ad géta af þeim feingid kúabólu efni, til ad endurnýja kúabólu-setnínguna á þeim eldri, því aldrei skyldi setja af þeim sem kémur út á í annad sinn, þar kúabólan skjaldan verdur ad gagni í þeim til ad setja af; veit eg til, ad nokkrir kúabólu-setjarar hafa flaskad á því, ad þeir hafa haldid ad einn gyldti úr hvörjum sett væri, ef ad eins kjæmi út á þeim, þó væri í annad eda þridja sinn, enda kémur skjaldan út hjá þeim á nokkrum manni, því eins og ein kúa-bólusetníng ver vissan tíma ad öllu fyrir bólunni, og þar eptir ennú leingi gjörir hana linari þó hún komi, eins verdur kúabólan sett í annad sinn jafnvel eptir lángan tíma, lángtum linari og kraptminni til útbreidslu, heldurenn úr þeim sem í fyrsta sinn eru kúabólusettir.

Kroptugast er kúabólu efnid úr stálpudum, heilbrigdum börnum, eda fullordnum sem aldrei ádur hefur komid út á, má og vel setja af úngbörnum, því öllum sem eru viku- eda $\frac{1}{2}$ mánadar gömul ætti ad setja, þegar bóluna er ad óttast. Sömuleidis má setja börnum þó þau hafi kláda eda krefdu, en verra er ad setja af þeim í adra, ef annars er kostur, og þad er nokkud ad mun.

Adferdin ad setja kúabólu, ætti ad vera flestum kúabólu-setjurum kunnug, þó óttast eg, ad allir séu ei jafnliprir í ad setja af þurrum skorpum, og slá þeir þá alltéud skuldinni uppá skorpurnar, ad þær séu ónýtar, þó þær hafi vel komid út hjá mér.

Þegar setja skal af skorpu, skal fyrst tálga hana nidur í steinbolla, svo hún verdi salla smá, sídan skal merja hana enn betur, med, anndhvørt járn= eda tré=hnúd hørdum og hreinum, sem sé hnøttóttur fyrir endann; þegar hún þá er ordin smámulin sem hveiti, skal láta drjúpa 1—2 eda mest 3 dropa af vatni, (eptir sem skorpan er stór) í mylsluna, hræra enn nú vel saman med stautaranum, svo verdi sem þykk kvoda, lódir þá gjarnan mikid af því vid stautarann, og má eins af honum taka á nálina.

Þegar búid er ad stínga med nálinni, vill vessinn færast upp eptir henni, og verda fyrir utan sárid, skal þá med oddinum taka hann aptur, og færa inní sárid; aldrei skal stínga innávid í holdid, heldur flá milli skinns og hørunds, svo ekki blædi, heldur ad eins blóddropi sitji eptir í gatinu; þá er mátulega djúpt sétt, ef ad eins má telja stíngina þegar búid er ad setja; 3 eda 4ra skyldi setja á hvørn handlegg; best er ad setja ad innanverdu á upphandleggina, því þar kémur best út.

Ad setja af lifandi kúabólu, veit eg allir kunna sem til þess eru settir, má setja af henni 8da til 11ta dags þegar vel hefur komid út, og ekki hefur rifnad ofanaf bólunni, sem mikld rídur á, ad vel sé passad, því kúabólunnar=verkun verdur minni ef rifid er af þeim, og allur vessinn rennur úr, líka verda stundum sár af því, sem leingi grefur í.

Allir sem kúabólusettir eru, ættu því ad fordast ad rísa af bólunni, eda klóra þær, heldur vera í svo vídum ermum sem þeir hafa faung á, og þeir sem brúka ullar= skyrtur, ættu ad vefja léreptsræmu um þann hluta handleggjanna, sem bólusettir voru, og hafa bundna þarum, svo ekki strjúkist skyrtan framm og aptur um þegar skoda þarf; líka klæar lángtum minna, ef lérept liggur vid hørundid, enn undir ullardúk.

Þar vid vardveitast og skorpurnar best, og týnast sídur, sem allar ættu ad haldast saman, og skilast bólusetjaranum, af þeim sem í fyrsta sinn er sett kúabóla, því þær má leingi geima, og senda lánga vegu, vafdar í líknabelg, eda láta=

ar í gløs, til að planta kúabóluna á aðra staði, og koma henni á gáng, eptir marga mánuði. Af þeim sem kúaból-an kémur út í 2að eða 3ja sinn, brúkast skorpurnar ekki, sem áður er sagt.

Því fleiri børn sem eru ókúabólusett í einu héraði, þess hægra er að útbreiða í þeim kúabólu, og viðhalda góðu efni, og munu án efa víðast hvar nokkur finnast.

Af einni kúabólu hefi eg sett yfir 80 manns, og má þaraf sjá hvað marga má kúabólusetja af einu barni sem hefur 6 eða 8 bólur; þegar vøl er á fleirum, opna eg aldrei allar bólur á sama barni, heldur einasta 1—2 eða 3, og læt það halda einni eða 2ur óskérðum, svo það ei missi ofmikinn vessa.

Nú spyrja menn, hvørja á að kúabólusetja í annað sinn? og er þá óhultast að svara: alla þá sem liðið er leingra enn 5 til 8 ár síðan þeir voru kúabólusettir sem børn, svo út hafi komið. Það er staðreint, að því ýngra sem barnið var, þegar því var sett í fyrsta sinn, þess fljótar þarf að endurnýa kúabólusetnínguna. Eg hefi sett 5 vetra børnum, sem bólusett voru á fyrsta ári, og hefur komið út á þeim, sumum vel; en hafi þau verið 5 eða 6 vetra, þegar þeim var sett í fyrsta sinn, kémur optast ekki út, fyrri enn eptir 7 eða 8 ár, og hafi þau verið 10 vetra, eður eldri þá enn seinna.

Vissast verður að reyna, að kúabólusetja alla sem sett hefur verið fyrir 1835, því þó ekki komi út á øllum, kémur út á velflestum, og á því fleirum, þess leingra sem liðið er frá því þeim var áður sett; Nauðsynlegt er og um leið, að líta vel eptir hvørt allir þeir hafa góð ør, sem þykjast vera bólusettir fyrir skémstu, því eg hefi orðið var við að margt fullorðið fólk, hefur eingin kúabólu ør, og veit ógjørla, hvørt nokkurn tíma hefur komið út á sér að gagni eða ekki; þessa alla ríður mikið á að kúabólusetja, hvenær sem þeim svo hefur sett verið.

Eg hefi í sumar sem leid, og í vetur fundid um 20 af fullordnu fólki, sem kúabólan aldrei hafdi komid út á, og høfdu þó jafnvel sumir af þeim kúabólu-attest.

Allir þeir sem kúabólan verkar á, hefdu gétad feingid meir edur minna af bólunni, hefdi hún komid í þá fyrri enn kúabólan.

Gamalmenni, sem ádur lifdu, þegar bólan gékk og lá í henni 1785 fá hana eins aptur, og fleiri hafa dáid af þeim, høfdu þeir ekki látid kúabólusetja sig, því þeir væntu ad sleppa hjá bólunni, af því þeir høfdu feingid hana einusinni, en þad er alkunungt, bædi hér og utanlands, ad þegar mjøg lángt lídur á milli þess bólan geingur, fá sumir hana 2ar, og er þá ekki von ad kúabólan vardveiti æfilángt, þegar hin gjørir þad ekki.

Í Stórubólu 1707 dóu margir er feingu bóluna í annad og 3ja sinn.

Þar sem bólan hefur geingid hér sunnanlands, má sjá hvad kúabólusetníngin hlífir vid henni, því eptir því sem hún hefur pøssud verid á hvørjum stad, hefur ordid minna edur meira af bólusóttinni.

Undir Eyafjøllum var strax í vor, vel kúabólusett af Monsr. Magnúsi Jónssyni á Hólakoti; hvarf bólan þá strax þadan, og lagdist einginn, sem kúabólan hafdi komid út á; þar á móti í Utskála sókn var ekkért af fullordnu fólki, aptur bólusett, nema nokkrir í Kéblavík, er eg setti í sumar er leid, og mørg børn óbólusett, enda dóu þar yfir 40 manns af sóttinni, þar af hérumbil helmíngur børn, af 600 fólks fjølda. Híngad til Reykjavíkur kom bólan í October, og darp eitt úngbarn óbólusett og módur þess fyrri enn eg af vissi.

Í Sumar er leid, hafdi eg um lángann tíma bólusett, einusinni í hvørri viku, og kunngjørt daginn med skrifudum sedli uppslegnum á kyrkjunni, komu optast nokkur børn sem sett vard, rúmt 100 í allt um Sumarid, og baud eg um

leid ad endurnýa bólusetnínguna á þeim eldri, en fáeinir þekkust það, helst Kaupstadar-fólk, en fáir af hverfis-mönnum; Eptir ad bólan nú var komin fyrir austan Kaupstadinn, útbreiddist hún meir og meir, drap þá 6, óvaccinerud børn, sem Foreldrarnir høfdu forsómad ad láta bólusetja, og nokkra karlmenn aldrada, hvar af 2 høfdu ádur lifad bólu, annar 70tugur, annar vid 6tugt, sem allir høfdu verid géfnir fyrir brennivíns drikkju, og mun það ekki hafa gjørt bóluna vægari; 2 kvennmenn dóu og sem eg veit ei hvørt nokkurntíma høfdu verid kúgbólusettar.

Nú tóku menn eptir, ad øll þau børn sem sett hafdi verid í sumar, og þeir fáu sem kúabólusetníngin hafdi verid endurnýud á, eda sett hafdi verid fyrir fáum árum, allir sneiddust úr, og feingu aungva bólu, þó þeir væru í húsum hvar bólan gékk; vildi þá margt fólk láta setja sér kúabólu, vard eg strax vid bón þeirra, og setti fyrir Jólin yfir 160 kúabólu, og um, og eptir Nýárid, jafnsørgum, og í Hafnarfirdi, hvar fólk var lángtum viljugara ad láta setja sér kúabólu, setti eg um sama mund yfir 300 manns, enda hefur þar enn nú eingin bóla komid, og hér í Reykjavík, hefur hún smáminkad sídan um Jól, og nú í $\frac{1}{2}$ mánud, einginn dáid og einginn lagst ad nýu, og allir sem enn liggja, eru í apturbata; sýnist því sem hún muni þegar hætt, og má ei kalla hún hafi vordid hér slæm, hvar yfir 1200 manns er samankomid í einni sókn, løkust var hún í December.

Einginn af þeim sem eg hefi kúabólusett í þetta sinn, og hún verid komin úr á, hefur feingid bólusótt, óttadist eg þó, ad bólusóttin væri komin í suma er sett var, en ef kúabólan kom út á þeim, ádur þeir veiktust, kom eingin bóla í þá, 3 voru lasnir þegar þeim var sett, og kom bólan út á þeim, eptir 1 og 2 daga, en batnadi aptur. Kúabólan fær þá lítin krapt, ef hin er komin í manninn ádur, sem opt gétur verid 14 døgum fyrr enn hún merkist, en spillir þó ekki,

því er betra að kúabólusetja í tíma, áður enn bólusóttin er komin á hvørn bæ, eða í hvørja sókn.

Hér eru, einsog víðar annarstaðar, ekki allfáir af þeim heimskusullu, sérvitríngs dárum, sem hlæa að øllum skinsamlegum tilraunum, stæra sig af, að þeir hafi aldrei á æfi sinni verið kúabólusettir og þeir séu ekki svo hræddir við dauðann eins og hi..ir sem láta kúabólusetja sig, og hafa nokkrir af þessum látið lísið fyrir gikkshátt sinn, aðrir leigið leingi, og þúnglega, og er líklegt að aðrir láti sér þeirra víti að varnaði verða.

Eg vona því, að sannfæríng sú, er við høfum hér umkríng af reynslunni, styrki aðra í trúnni, sem sjær búa, og til hvørra sóttin enn ekki er komin, svo að allir, úngir og gamlir brúki þetta óbrigdula varnar meðal í tækann tíma.

Það er lítið ómak, þó menn ættu 5ta eða 10ða hvørt ár að endurnýa kúabólusetnínguna, helst þegar bólusóttina er að óttast, því hefur heldur aldrei verið heitið, að hún skyldi varðveita alla æfi óendurnýuð, því Dr. Jenner sem fann uppá henni, seigir „hún er óbrigðult meðal að varna bólunni eptir sem híngað til hefur reinst, en hvørt hún nægir einusinni fyrir lángann aldur, veit eg enn þá ekki, það má tíðin og mínir eptirkomendur, af reynslunni sanna." Og nú vitum við að hún er eins áreiðanleg, eins og hún var þá, en þarf að endurnýast eptir nokkur ár.

## Um Bólusóttina.

Bólusóttin byrjar í fyrstu, líkt og aðrar landfarsóttir, með høfuðverk, optast stríðum verki yfirum mjóhrigginn — sem er bólunnar einkénni — hrylllíngs skjálfta og síðan bruna hita, með þorsta, beinverkjum, og líkri tilfinníngu, sem allur líkaminn sé marinn. Á 3ja eða 4ða deigi slær út smáum, rauðum bólum, sem síðan hvítna í kollinum,

um andlitid, brjóstid, høfudid og hálsinn, og smátt og smátt um allann kroppinn, er þad mjøg misjafnt bædi hvad mikid slær út, og hvørnin bólunni er varid. Sumir sem kúabólusettir voru fyrir 10 til 20 árum, fá opt lítin útsláttr, edur jafnvel aungvann, ef þeir hafa svitnad vel, og verdur lítid úr sóttinni, sem endar med hroda- útslætti, helst um høfudid, og eru strax frískir eptir 2 eda 3 daga. Á ødrum sem lángt er sídan þeir voru kúabólu- settir, verdur útsláttur inn meiri um allann kroppinn, og mismunar þá strax hvørt bólurnar standa adgreindar hvør frá annari, eru upphásar, og holdid ekki bólgid niduráá milli, er þad betri bólutegund (Variolæ discretæ) heldurenn ef allt holdid þrútnar og bólnar jafnt, svo allar bólurnar hlaupa saman í hellu, og verda óvída adgreindar, kallast þad hellu-bóla (Variolæ confluentes) og er hún verri enn hin fyrri.

Þegar bólan er komin út, léttir optast sóttinni í kroppn- um nokkud, og sumir, sem høfdu gód kúabólu ør, fá þá strax matar-lyst, og fara eptir fáa daga á fætur.

Adrir sem aldrei, eda fyrir mjøg laungu voru kúabólu- settir, og þá úngbørn, hafa alraf nokkra sótt, sækir þá og opt svefnleysi og hardlífi, verdur bólgan svo fjarska mik- il ad augun géta ei opnast, og allt andlitid og líkhamiun afskræmist, hálsinn og munnurinn bólgnar ad innan, og bólur koma á túngunna og í kverkarnar, svo þeir géta varla eda ekki rent nidur; allur kroppurinn verdur stundum skinn- laus, einkanlega þegar bólan verdur hellubóla, og bólgan svo fjarska mikil, ad skinnid springur og rotnar af, verdur þá allur kroppurinn eitt skinnlaust bólgu-stykki, med óþol- andi svida, hvar úr vellur síseldlega, illa liktandi vilsa — þ. e. Vota bóla.

Menn skipta tídinni er bólan varir, gjarnast í 4a parta nl. fyrsta tímabil er sóttarumleitunin, þar til bólunni slær út, sem varir optast í 3 daga; annad, eda útsláttar

tímabil, medan bólan er ad slá út, sem optast skédur á rúmum deigi, varir þó stundum í 2 til 4 daga; Þridja er ígérdar tímabilid; byrjar optast þann 9da dag frá sóttar-innar byrjun, vex þá ad nýu høfudverkurinn, beinverkir, og hiti i kroppnum, stækka þá og bólurnar aptur og verda graftarlitadar í kollinum — ádur er vessinn klár og gégn-umsær í þeim — andlitid bólgnar þá enn meira enn ádur, og á ýmsum stødum um kroppinn, hvar bólan var mest komin út, vex bólgan, en eptir sem grøfturinn rennur úr bólunum, linast hún aptur, og sóttin sjálf med; sumar bólur sem minni eru, þorna upp og visna, án þess úr þeim renni, opt kémur spýtingur mikill og sárindi í munn-inn á þessu tímabili. Þessu fylgja því og stundum høfud-órar og svefnleysi.

Ígérdar sótt, sem er sú hættulegasta fyrir þá, er aldrei voru kúabólusettir, og deydir marga af þeim, verdur alment minni á þeim sem einhvorntíma hafa verid kúabólusettir; á mørgum af þeim minkar sóttin algjørlega þegar bólan er komin út, og kémur aldrei aptur; bólurnar eru vessa minni, og þorna upp af sjálfu sér, og falla af sem hreistur án þess þeir fái neina tøluverda ígérdarsótt.

Svoleidis hefi eg séd einn mann yfir 40tugt sem hafdi verid kúabólusettur fyrir 34m árum, hann fékk sterka bólu-sótt, og bakverk mikinn, sem linadist vid blódtøku; á 3ja degi var hann allur útsleginn, og tøluverdt bólginn í framan, og í hálsinum, en strax eptir 2 daga, fór bólan ad þorna og minka, án þess hann feingi minstu ígérdarsótt, fékk matarlyst, og komst á fætur eptir fáa daga; á þessum var audséd, ad kúabólan ennú eptir 34 ár, linadi mikid sóttina, því mikid minna vard úr henni, enn útleit fyrir í fyrstu, og batnadi lángtum fljótar helduren jafnmikil bóla, á øldúngis ókúabólusettum plagar ad gjøra. 4da er hreistr-unartímabil, þegar bólurnar þorna og detta seinast af sem hreistur, bólgan minkar allstadar smátt og smátt, sá veiki

svitnar af sjálfu sér, og fær hægan uppgáng frá brjóstinu; Þessi tímabil vara ekki á öllum jafn leingi, einkum þau 2 seinustu, því liggja sumir í fáa daga, adrir í jafnmargar vikur. Einn sem var 30tugr og hafdi verid kúabólusettur, nokkurra vikna gamall, lá í 6 vikur þúngt, og fékk svo þúnga bólusótt og bólgu, ad kúabólunnar verkun, sýndist ad hafa tapad sínum krapti algjørlega, nema ef vera skyldi, ad hann þó lifdi, og batnadi á endanum, því hann sýndist optar adkominn dauda, héldt eg ad kúabólan hefdi fyrir laungu tapad svo miklu af krapti sínum, af því hann var svo mjøg úngur þegar honum var hún sett.

Medferdin á bólunni er nú nokkud ýmisleg eptir sem hún hagar sér, enda koma stundum skjaldsjæf tilfelli sem þurfa sérlega medferd. Eg vil stuttlega géra þess sem vanalega er brúkad, og flestir þurfa vid.

Þegar bólusóttin gripur einn fullordinn med miklum høfudverk og stridum bakverk, er best strax ad taka blód á handlegg, sérdeilis ef bakverkurinn er svo mikill sem tak væri; skjaldan hefi eg tekid blód optar enn einusinni, þó má þad vel vera í annad sinn, ef verkurinn ekki linar vid fyrstu blódtøku, helst ef blódid er med hvítri seigri skán ofaná í fyrra sinni. Þar eptir er optast géfid eitt laxérmedal t. d. 3 til 4 lód af laxersalti, uppleystu í heitu vatni. Børnum má géfa minna eptir aldri eda þá theevatn af sennesblødum, eda eitthvørt annad vanalegt laxermedal.

Þarnæst er gott ad láta þann veika altaf svitna vid og vid, þángad til bólunni slær út, því bædi verdur útslátturinn og bólgan í holdinu vægari vid þad, og enda á sumum, sem fyrir 15 eda 16 árum hafa verid stálpadir, kúabólusettir, hefi eg ordid var vid, ad hafi þeir svitnad vel, verdur ekki mikid úr bólunni, og jafnvel á sumum, hefur eingin bóla komid út, og þeir hafa ordid heilbrigdir strax eptir ad hafa svitnad í 3 samfleytta daga. Þó mun þad ekki eiga heima hjá ødrum enn þeim, sem

kúabólan hefur ennú tölduverdan krapt í, og verdur þá jafnan lítid af bólusóttinni í þeim, hvörnig sem med er farid, enda grípur hún þá ekki svo ákaflega sem hina, heldur fer med mikilli hægd, svo þeir aldrei lída stórar þjáníngar.

Þess má strax géta ad öllum bóluveikum, eins og öllum sóttveikum, er ómissandi ad hafa hreint og gott loft hvar þeir liggja inni, er naudsynlegt um sumar- eda vor-daga, ad opna glugga daglega hvar þeir liggja, enda þó kaldt sé í vedri má þad vel gjöra litla stund í einu, og breida vel yfir þá föt á medan, svo ekki komi kaldur vindur ad þeim; en á sumrum, má gluggi standa leingst af opinn um daga, ef ei blæs vindur beint á hann.

Til ad svitna af, má brúka heita drykki t. d. vel heitt theevatn ydugléga, ef sá veiki svitnar greidlega, má þad gjarnan vera vanalegt heitt blódbergsvatn, Congothee og þessháttar, því hitinn alleina verkar svita, ef sá veiki er vel þakinn í fötum.

Þeir sem eiga örduget med ad svitna, géta tekid Chamforudropa 80 í einu, eda Chamforu-brennivín nefnla. 1 lód Chamforu uppleyst í $\frac{1}{2}$ potti brennivíns, og þar af géfin ein matskeid í einu, plagar ad nægja flestum; hyldethee ad drekka af, géta og þeir brúkad, er þad hafa eda géta nád því.

Þegar bólan slær út, plagar sóttin ad linast, og sá veiki ad hressast í þad minnsta um stund, þarf þá optast eingin medöl ad brúka, nema ad sjá til, ad sá veiki hafi gódar hægdir, því hardlífi vill gjarnan fylgja med sjúkdóminum eptir ad bólan er komin út; Stólpípa er þá gód ef hann er þúngt haldinn, sé hann þad ekki, má brúka opnandi medöl af þeim ádur töldu.

Verdi bólgan fjarska mikil í andlitinu svo augun lokist, er naudsynlegt ad væta ríur í köldu vatni, og leggja yfir þau opt á dag, til ad kjæla og mýkja bólguna í augnalok-

unum, sén fáar bólur í hnakkanum, má þar og leggja spansflugnaplástur, en sé hann mjög þakinn bólum verdur þad ekki. Safnist bólan mest í andlitid og höfudid, en lítid á útliminja, lukkast stundum ad fá hana til ad slá út á fótum og handleggjum med því, ad nudda þá uppúr heitu vatni, passa ad fæturnir séu vel heitir, jafnvel færa þá í ullar sokka, og ef ekkért slær útum þá ad heldur, leggja spansflugnaplástur aptaná kálfana, því þad léttir frá höfdinu og augunum, ef jafnt slær úrum allann kroppinn helst útlimina.

Bólga og eymsli í hálsinum, fylgir alment töluverdri bólusótt, kémur þad af bólum sem þar sitja, vid því er gott ad vefja hálsinn í ull, sem sé heit og þur, og innvortis brúka hreint hunáng, 1a theeskeid í einu nokkrum sinnum á dag til ad mýkja sárindin í hálsinum; verdi hálsinn svo slæmur, ad sá veiki géti ekki rent neinu nidur, má brúka stólpípu til ad halda vid hægdum, bada hálsinn utan med volgu vatni, og leggja svo heitann ullarbakstur yfir.

Á þeim sem sóttin eykst aptur, eptir ad bólan er komin út fyrir nokkrum dögum, og er þad þá af ígérdarsótt, er gott ad brúka kjælandi medöl, svo sem kjælandi púlver 1a kúffulla theeskeid í einu í vatni hvørn eiktartíma, eda kjælandi mixtúru er svo kallast (Mixt: acid: mineral:) til ad blanda med vatni, 2 til 3 matskeidar, og drekka sem svaladrikk, má og brúka saltpétur mulinn og uppleystann í vatni, 2 lód í potti, og taka þar af 2 eda 3 matskeidar á eiktar-fresti.

Suma sækir svefnleysi mikid, er þá hollt ad brúka heitt fótabad, og nægi þad ekki, má med varúd brúka svefndropa, þó helst eptir Læknirs fyrirskrift, án hvørrar þeir ekki fást keyptir í Apóteki; þeir eru annars ómissandi medal ad hafa, hvar mikil bóla geingur, og hjálpa ágjæta vel, med gjætni brúkadir, hvar svefnleysi er mikid, órói í kroppn-

um og útúr svefnleysinu koma höfudórar þegar þad varir leingi. Sömuleidis passa þeir þeim sem fá sinadrætti, sem stundum fylgja offstædu bólgu í hálsinum og andlitinu.

Nú verdur skinnid stundum svo spent og aumt af bólgunni, ad sá veiki þolir ekki ad láta snerta þad, má þá bera á þad mjúka feiti, t. d. nýstrokkad ósaltad smjör, til ad mýkja bólguna; líka sitja stundum hardar og þurrar skorpur á bólgnu holdinu, sem springur af þurk og hita á milli hrúdranna, má þá bleyta þær upp med volgri mjólk, edur rjóma, hvar vid skinnid mýkist um leid; mikill spítíngur í munninum er gott merki, og má hann ekki hindra, en ef hann af sjálfum sér hættir fljótléga, og kverkarnar bólgna þá meira, skyldi halda munninum opnum yfir gufu af heitu vatni, til þess aptur ad örfa hann og vatnsrennslid af hálsinum.

Þad ber vid í bólunni, ad túngan er mjög óhrein og hulin þykkri, gulleitri skorpu, má þá, ef þad er í byrjun sóttarinnar, ádur enn bólan er komin út, géfa þeim veika uppsölu medal, í stadin fyrir, ad laxermedal er brúkad annars þegar túngan er hrein og raud; verdi nú túngan mjög óhrein seinna í sjúkdóminum, má og géfa uppsölu medal, ef eingin eda lítil bólga er í hálsinum, en sé mikil bólga í honum, og sárt ad kenna nidur, er betra ad brúka laxer medal, og komi blód úr hálsinum, má alls ekki brúka uppsölu medal, og þad yfir höfud í bólusóttinni er skjaldnar brúkad, enn í ödrum landfarsóttum.

Á einstaka manni byrjar sóttin med höfudórum ádur enn bólan kémur út, má þá og líka taka blód, brúka heitt fótabad, en leggja kalda, vatnsvota klúta vid höfudid, og jafnvel leggja spansfl. plástur aptan á kálfana, brúka innvortis kjælandi medöl, nefnil. kjælandi pulver, vínstein, eda saltpetur.

Þad er hættulegt, ef bólunni slær inn aptur fljótlega, eptir ad hún er komin út, þekkist þad af: ad bólurnar

mínka skyndilega, eda hverfa, og vestnar þá sóttin innvort-is um leid; ýmist koma þýngsli fyrir brjóstid, hofudverkur mikill og høfudórar, eda jafnvel hvørutveggja þetta til sam-ans, þá er þad besta rád, ad reina til ad láta þann veika svitna svo fljótt sem verdur med Camfóru og heitum drykk, sem ádur er umtalad. Þvo og nudda kroppinn upp úr volgu vatni, og leggja spansflugna plástra á hand-leggi og fætur.

Ýmislegar umbreitíngar géta ad sønnu komid í bóluna, sem hér yrdi oflángt upp ad telja, og máské nokkud ókil-janlegt fyrir marga, sem ekki eru sjúkdómnum vanir, er þad ein sú helsta, þegar bólusóttin verdur ad rotnunarsótt, er hún þá mjøg hættuleg, med sífeldum høfudórum, sjarska mik-illi bólgu, eda bólu-útslætti, med bláleitum flekkjum, svo ad þegar þær þorna, sortnar allt holdid, og verdur døkk-leitt (Variolæ nigræ) þá er naudsynlegt ad brúka súra drykki; þeir sem því géta nád, ættu ad brúka brennisteins-sýru (Acidum Sulphuricum dilutum) sem blanda má í kaldt vatn svo þad verdi mátulega súrt, og láta þá veiku drekka þad sém svaladrykk, eda þeir sem eiga kost á ad nálg-ast þá súru kjælandi Mixturu, hvørrar ádur er gétid; 3 matskeidar annanhvørn tíma má taka af henni í køldu vatni. Kalda vatns bakstra, skyldi og leggja á høfudid vid þá, er svo eru, sem til lukku eru fáir, nema ef vera skyldu aldeil-is ókúabólusettir, því ekki hefi eg séd hana svo vonda í ødrum enn þeim.

Ýmisleg fylgi-krom, kémur eptir bólusóttina þegar hún er botnud, ein sú helsta er kýli hingad og þángad um kroppinn, einkum undir høndum, meiga þau medhøndlast eins og hvør ønnur kýli, nefnilega: leggja volgan mýkjandi bakstur vid þau, þar til þau, annadhvørt grafa út af sjálfu sér, eda sprétta má í þau, og hleypa út vognum, brúka sídan sára-salve, edur annad þesshattar, sem vanalega er brúkad vid útgrafnar igérdir.

Mataræði þeirra bólusjúku, má vera nokkuð misjafnt, eptir sem sóttin er mikil; þeir sem hafa lítilfjørlega bólu, géta alltaf næstum því borðað allan mat, þó er ekki ráðlegt að géfa þeim kjøtmat, fyrr enn þeim er tøluverðt batnað, og þeir hafa feíngið góða matarlyst; vatnsgrautar og mísa að drekka, er best fyrir þá sem hafa tøluverða sótt, og sé túngan hrein, má gjarnan géfa þeim mjólk eða mjólkurmat; kjøt á betur við, eptir að þeir fara að hressast, og eru komnir á fætur.

Þegar einstakir menn í einu héraði, fá bólu og þar er ekki nýlega kúabólusett um kríng, ættu allir að gjøra sér að skyldu, að varast, að bólan breidist út frá þeim, sem má með því móti, að einginn af bæ komi, eða sitji inni hjá þeim bólusjúka hvar hann liggur, og að allir sem ekkért erindi hafa, forðist að koma þar inn, og mest ríður á, að sjálfir þeir veiku, eptir að þeim er batnað, fari ekki á aðra bæi, hvar bólan ekki er, fyrri enn allt hreistur er af þeim dottið, og øll føt, þau er nærri þeim voru, er þeir láu, eru vel þveigin, og síðan þurkuð leingi í vindi. Þar til þénar líka, að þvo allan líkamann í volgu vatni, eptir að bóluhreistrið er dottið af, og það jafnvel optar enn einusinni.

Skrifað í Febrúar 1840.

af

J. Thorsteinsen.

